# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

13. árg. WINNIPEG, DESEMBER 1898. Nr. 10

## Aðventusálmr

eftir séra VALDEMAR BRIEM út af Jóh. 3, 29—31.

(Lag: Sælir eru þeim sjálfr guð.)

1. Þú, Jesú, blíði brúðguminn,
til brúðar þinnar kemr.
Ó, mætti' eg vera vinr þinn,
þá vænti' eg einskis fremr.
Þér vaxa ber, en minnka mér;
það mig þó hryggt ei getr;
eg fagna þó; mér það er nóg,
ef þú mig vin þinn metr.

2. Þú ríkir hátt í himinsal,
en hér þó vaxið getr.
En eg hér lágt í jarðardal,
á eg að lækka betr?
Þér vaxa ber, en minnka mér;
það má svo til að vera.
En gott er það, sem guð á kvað,
já, gott hans ok að bera.

3. Þú, drottinn, kemr ofan að
með allri blessan þinni.
Mér náðarhnossið nægir það

í niðrlæging minni.
þér vaxa ber, en minnka mér.
þótt mig eg verði' að lækka,
mín von og trú er sífellt sú,
að síðar muni' eg hækka.

4. Af miskunn réðst þú minnka þig
og manna gjörðist líki,
að hátt þú fengir hafið mig
í himna blessað ríki.
þér vaxa ber, en minnka mér,
unz mér þú vöxtinn gefr;
og koma tíð mun sú um síð:
þú sjálfr upp mig hefr.

5. Nú bráðum koma blessuð jól,
þá birtist ljóssins kraftr;
ei lækkar meir hin lága sól,
á lofti' hún hækkar aftr.
Svo hækka mér til himins ber,
já, hærra brautum stjarna.
Upp hef þú mig á himins stig,
þú, himnesk sól guðs barna.

## Betlehem — Jósef og María.

**Jólahugleiðing.**

Eftir séra Friðrik J. Bergmann.

Svo sem tveggja klukkustunda leið suðr frá Jerúsalem liggr bœrinn Betlehem. þar fœddi Rakel forðum sinn harmkvælason, Benóní, og lét um leið líf sitt. En faðir hans nefndi hann Benjamín, hamingjuson, og reisti, fullr harms og saknaðar, bautastein á gröf sinnar elskuðu brúðar. þarna í Betlehem tíndi Rut öxin á akri Bóasar. þar bjó Ísaí og óf að sögn tjöldin til tjaldbúðarinnar úr ull sauða sinna. þar fœddist Davíð, Ísraelskonungrinn og skáldið. þar byggði hann sér marga konungshöll á milli hæðanna, er hann ungr gætti sauða föður síns. Og þegar hann seinna varð að ráfa úr einum stað í annan og viðhafast á eyðimörkum til að forða lífi sínu, þráði hann einn brennheitan

sumardag að fá kaldan svaladrykk úr brunninum við Betlehemshliðið til að slökkva þorsta sinn. En er þrír af hinum ungu, hugprúðu hetjum hans brutust gegnum herbúðir Filisteanna, jusu vatn úr brunninum og færðu Davíð, komst hann svo við af því, að þeir skyldi þannig hafa stofnað lífi sínu í dauðans hættu hans vegna, að hann steypti þessum dýrkeypta svaladrykk niðr á jörðina, því „hann vildi ekki drekka blóð þessara manna", — hellti vatninu niðr „fyrir drottni", sem svalalindir ætti nógar handa honum og hernum.

Nú er þá fylling tímans komin. Litla, fyrirlitna Betlehem, nafn þitt, sem þýðir *brauðhús*, hefir þú borið með rentu; því nú gefr þú öllum heimi lífsins brauð. Rakel er hér orðin jóðsjúk í annað sinn og fæðir nú þann soninn, sem verða á bæði Benóní og Benjamín, harmkvælasonr og hamingjusonr um fram alla aðra. Hér á fæðingarstað hans skal bautasteinn reistr, fæðingarkirkjan eða Maríukirkjan, elzta kirkjan í kristninni, sem stendr enn í dag.

Þér Ísraelsmæðr, keppizt nú við að tína öx á akri Bóasar meir en nokkru sinni áðr, því nú eiga þau að næra líkama hans, sem gefa vill hold sitt og blóð öllum heimi til lífs. Og þú, gamli Ísaí, lát þú nú afkomendr þína hætta að stíga vefinn; því brátt rifnar fortjaldið niðr í gegn og mun aldrei verða dregið fyrir aftr. Harma þú ekki yfir því, að nú sé ekki eftir af ættlegg þínum nema rótin ein. Því upp af rótinni vex angi og upp af stofninum kvistr, sem verða á að lífsins tré og breiða sitt blessað lim um allan heim. — Davíð, Ísraels sigrsæla hetja og andríka skáld, hrærast nú ekki bein þín í gröf sinni, þegar hin dýrðlega hugsjón anda þíns fær hold og blóð? þegar hann, sem þú sást í fjarska, konungr dýrðarinnar, heldr innreið sína til mannlegs lífs? Manst þú hina brennandi hádegisstund í eyðimörkinni, þegar tungan loddi þér við góm og þú varst að örmagnast af hita? Rekr þig minni til hins tæra, svalanda vatns úr Betlehemsbrunninum, sem glóði í hjálmunum, og þú steyptir niðr í hinn þyrsta eyðimerkr-sand? Nú er brunnrinn í Betlehem orðinn öllum mönnum lífsins brunnr og vatnið úr honum svo máttugt, að það getr grætt eyðimerkrsanda mannlegs lífs og gjört þá að frjósömum ökrum.

Göngum nær. Göngum inn í húsið, þar sem þau Jósef og

María hafast við. það er um miðja nótt. Húsið er fullt af sofanda fólki og fénaði. Fyrir framan eina hvíluna sitr maðr. Fyrir ofan hann hún, sem nú er nýorðin móðir. Barnið hefir hún á örmum sér, soninn, sem engillinn hafði talað um við þau bæði. Stundin rennr upp fyrir henni, þegar engillinn kom inn til hennar og hún varð svo óttaslegin, en hann kallaði hana hina sælustu allra kvenna, talaði um soninn, sem guð ætlaði að gefa henni og meiri ætti að verða enn allir aðrir menn, — hann, sem verða skyldi sonr hin hæsta, konungr voldugri en Davíð, eiga eilíft konungsríki, vera heilagr og kallast sonr guðs. Var eigi þessi von of dýrðleg fyrir mannlegt hjarta? Samt hafði hún geymt hana, engum trúað fyrir henni. Að Elízabet frændkona hennar hafði heilsað henni sem móður drottins síns hafði ekki verið hennar sök; drottinn sjálfr hafði lagt þau orð á tungu hennar. Og hún man, hvernig hún þá sálf fylltist heilögum anda og söng drottni lofsöng, einhvern hinn dýrðlegasta, sem komið hefir af mannavörum.

Jósef hugsar um baráttuna, sem hann átti í við sjálfan sig, drauminn dýrðlega, sem hann dreymdi, orð engilsins, sem sannfœrðu hann um, að sonrinn, sem heitmey hans átti von á, væri sonr guðs, Immanúel, guð með oss, — hinn fyrirheitni Messías Ísraels.

Og nú höfðu þau beðið eftir þessari stund, að þau fengi að sjá hann. Oft hafa mannlegar vonir risið hátt, en aldrei eins hátt og í brjóstum þeirra. Stundin er komin; nú hafa þau hann hjá sér. Hvítvoðungrinn þessi er sonrinn, sem engillinn hafði talað um, sá, er heita skyldi Jesús, af því hann átti að frelsa, — sá, sem spámennirnir höfðu spáð um, sá, sem verða átti voldugri en Davíð og sitja að völdum til eilífðar.

Heldr þú, að verið hafi nokkurn tíma eins mikil hátíð í nokkrum mannlegum hjörtum og í hjörtum þeirra Jósefs og Maríu þessa nætrstund? Mun eigi hafa sungið í sálu þeirra: „Önd mín lofar drottin, og andi minn gleðr sig í guði, frelsara mínum“?

það var fyrsta jólahátíðin hér á jörðinni. Og eg vil setjast hjá þeim Jósef og Maríu og læra að halda jól, — læra að láta vera hátíð í hjarta mínu, — lofa drottin fyrir það, að mér er frelsari fœddr.

## Önnur jólahugleiðing.

Eftir séra Jónas A. Sigurðsson.

Engillinn sagði: „Hann skaltu láta heita Jesúm, því hann mun frelsa sitt fólk frá þess syndum.“ Matt. 1, 21.

Og í sambandi við þessi orð vil eg minna á ljóð, er eitt aðalskáldið íslenzka kveðr á einni nýlega liðinni jólahátíð:

„Viltu fæðast? fæðstu þá,
veröld; — þú ferð villigötu;
veröld, þú ert barn í jötu,
kannt ei ljóðin lífsins há.“

„Viltu fræðast? fræðstu þá.
Vesöl þjóð, hví viltu' ei læra
vísdóm guðs og börn þín næra
Jesú líknarlindum á?“

Þetta, að fæðast og frelsast, sem hér er talað og kveðið um, ekki einungis líkamlega og tímanlega, heldr og andlega og eilíflega, er aðalatriði lífsins, fyrir einstaklingana og þjóðirnar.

Jesús fæddist til þess að *frelsa*, eins og upphafsorðin segja og öll guðleg opinberan ítrekar. Vér fæddumst til þess að vér mættum *frelsast*. Jesú æfitilgangr og ætlunarverk hér á jörðu var að frelsa sitt fólk. Vor lífstilgangr að verða hans fólk og frelsast. Guðs orð kennir það. Og skáldið kveðr um, að veröldin, sá hluti mannanna, sem hafnar þessari líkn eða frelsi í Jesú, fari villigötu. Þeir menn kunni ekki né skilji hina sönnu lífsspeki. Þeir sé í andlegum reifum, í kristilegum skilningi óvita börn. Út af því kvartar hann um tregðu sinnar eigin og vorrar þjóðar til þess að læra þennan vísdóm guðs og náð hans í Kristi, — hve mjög börn þjóðarinnar skorti það, að svala sér af líknarlind Jesú Krists. Það vakir berlega fyrir höfundi ljóðsins, að vilji veröldin, mannkynið, þjóðin hans fæðast andlega, afleggja allt hið illa og hálfa í kenning og lífi, þá hljóti sú endrfæðing að verða í sambandi við jólin og Jesú fæðing. Fæðing Jesú og endrfæðing mannkynsins, betran heimsins, er bæði í orði drottins og þessu trúarljóði sett í órjúfanlegt samband. Ljóðið ítrekar þar hinn guðlega texta hjá Matteusi: „Hann mun frelsa sitt fólk frá þess syndum.“ — Vitnisburðrinn

segir: það er *hann*, hann, sem fæddist í Betlehem samkvæmt fyrirheitinu, sem skal frelsa alla sína, þá, er vilja láta frelsast á öllum öldum, meðal allra þjóða. Ekki er hann einn meðal margra, er reisa skuli við fallið mannkyn, leiða á réttan veg þau veraldarbörn, er fara villigötu, — heldr er það *hann*, hinn einstaki, óviðjafnanlegi, eini frelsari þeirra allra, er inn í heim þennan fæðast. Og fæðingartilgangr hans er ótvíræðr og efalaus: sá, að frelsa. En fólkið þarf að verða hans, segir hið sama orð. Einungis sitt fólk frelsar hann frá synd og syndaafleiðing. Villa veraldarinnar liggr fyrst í því, að koma ekki til Jesú. Og kennimaðrinn, sem hér kveðr, skoðar þjóðina sína — oss — vesala, auma, í hættu, sökum þess að börnin hennar, fólkið íslenzka, eða eitthvað af því, sé ekki algjörlega hans, — ekki nært á líknarlind Jesú Krists. Það stoðar ekkert, þótt Kristr fæddist í Betlehem, þótt hann hefði þúsund sinnum íklæðzt mannlegu holdi, oss og öðrum mönnum til frelsis og sáluhjálpar, ef vér erum ekki hans fólk,—meðan hann fæðist ekki í voru eigin hjarta og hugsunum.

Öll villa og yfirsjón mannanna, öll sorg og synd, allr kærleiksskortr og lífsböl, hefir rót sína í tregðu þeirra á því, að koma til Jesú og leyfa honum að fæðast í hjarta sínu. Hvað sem að er í lífi mannanna, hjá þjóðunum og einstaklingunum, í stjórn landanna og hag heimilanna, milli foreldra og barna, í sambúð hjóna og vina, í viðskiftalífinu, sem allir sjá hversdagslega, og í sálarlífinu, sem mannlegum augum er að mestu dulið,— eigi það að lagast, breytast til batnaðar, fæðast að nýju, hlýtr sú umbót, sú fæðing til nýs lífs, að standa í sambandi við jólin og Jesú fæðing.

Með slíka meðvitund í huga og þekking á andlega ástandinu eins og það er verðr þessi spurning eðlileg: „Vesöl þjóð, hví viltu ei læra vísdóm guðs og börn þín næra Jesú líknarlindum á?“ Hví kjósa svo margir að lifa án jólanna og Jesú Krists í heiminum? eða láta huga og hjörtu nema staðar við einhvern ytra hégóma, gjöra fæðingarhátíð Jesú og frelsisdag sinnar sálar að holdlegri nautnarhátíð? Hví færa menn þá ekki börn sín til Jesú, kenna þeim um Krist, en nema svo oft staðar við glys og glaum hins hégómlega? Þegar þannig er ástatt, fer veröldin villigötu, breytir sem óvita barn. Þá er þjóðin, hver sem hún

annars er, vesöl og aum, og þá er einstaklingrinn, þó hann annars hafi allsnœgtir, vansæll, skilr ekki jólafögnuðinn, hvorki sína eigin né Jesú fœðing.

En við jóla-sumbl syndarinnar heyrast þessi áminningarorð: „Trú þú ei, maðr, á hamingju hjól, heiðríka daga, né skínandi sól, þó leiki þér gjörvallt í lyndi.“ Hve margir af þeim, sem fyrir skömmu eyddu jólatíðinni einungis til hins ytra undirbúnings, hugsuðu allt um vinagjafir og veraldarprjál, en ekki um sitt eigið hjarta sem jólagjöf til frelsarans, — menn, sem þá trúðu á hamingjuhjólið, er þeir eltu, sem þá sáu ekki annað en heiðríkan æfidag, skínandi gleði og lífsnautnar tál, sem tæplega datt hin andlega og alvarlega hlið lífsins í hug, sem naumast hugfestu eitt orð af jólaerindi guðs orða, en einungis drukku í stórum teigum hina ytri lífsgleði, — ó, hve margir af þeim líða nú sorg og þraut líkamlega og andlega! Þeirra jólagleði og lífsgleði er horfin. Hún var útvortis, jarðnesk, glysleg, skammvinn. Eigi vor jólagleði að vera varanleg, þá hlýtr hún að vera í Kristi, — andleg og kristileg. — Hve skammt er einatt í jarðlífinu frá því að jólatréð og allr þess fögnuðr er borinn út, þar til inn er borið tréð, er geyma skal hold vort og ástvina vorra. Jólin minna einnig á þetta. Æfin hans, sem á þeim fœddist, minnir á það. Hve skammt var á milli nætrinnar í Betlehem og nætrinnar í Getsemane! Hve fljótt líðr tíminn frá hinni fyrstu dýrðlegu jólanótt, er Betlehems-barninu var hjúkrað við móðurhjartað, til nætrinnar, er það var fjötrað, hrakið, sært, útskúfað, örmagnað og krossfest! Frá Betlehem til Golgata er skammt í öllum skilningi, — í æfisögu Jesú og eins í lífi vor mannanna. Það leið ekki langt frá gjöfum og tilbeiðslu vitringanna til flóttans um eyðimörku til Egyptalands. Tíminn er ekki langr, sem líðr frá lofsöng englanna við fœðing Jesú unz hin voðalegu Ramahljóð heyrast út af morðtilraun Heródesar við Jesú-barnið Líf vort og barna vorra er háð sömu lögum að því, er hin ytri kjör snertir. Engill jólatrésins, gjafir og góðvild vina vorra, lofsöngr og fagnaðar-hósíanna fólksins, móðurhöndin, sem vafði oss reifum og hjúkraði oss,—ekkert slíkt geymir oss frá því, ekkert, nema hann, sem fœddist til að frelsa sitt fólk frá þess syndum.

Fáein jól, fá ár, nokkra mánuði varir heilbrigði og hylli,

svipað og í jarðlífi Jesú. Þeir, sem nú fagna, sem veröldin leikr við, sem eftirlætið og yndið umfaðmar, missa sjónar á jólatrénu og taka upp í þess stað krosstréð, — eg og þér allir. Söngrinn snýst í ekka og grát. Strengr þess hljóðfœris, er hæst gall, er slitinn. Gjafir og menjar liðnar undir lok. Hlátr og hjartagleði breytt í sorgarþunga og lífsalvöru. Hin léttu spor œskumannsins, er vinirnir dást að, snúast í einmana eyðimerkrgöngu flóttamanns, sem heimslánið hefir gjört að útlaga og jafnvel sumir fornvinirnir ofsœkja. Frostkuldinn blæs bliknuðum laufum og frostnum snjónum yfir hvílu margra þeirra, er á liðnum jólum glöddu hjarta vort. Finnið þér ekki enn autt rúm við hlið yðar, þar sem þeir dvöldu? Jólaendrminningin flytr oss svip þeirra. Orðin, samvistin, jólin, lífið, — sjáið þér það ekki? Finnið þér ekki enn brenna á vörum yðar ástarkveðju kristinnar, sanntrúaðrar móður og föður? Mér finnst nú skilnaðarorðin, bœnarorðin, guðs orðin taka yfir allan heimsháfaðann, alla hina ytri jólagleði, allan kenningarþyt sjálfbirginganna, allan uppreisnarandann, sem vill varpa frá sér jólaendrminningunum og Jesú, kristindómnum og jólaljósinu, sem öðru fánýtu feigðarblysi.

---

Úr fornum sögum minnizt þér, að forfeðrnir gáfu sínum, helzt við skilnað eða á deyjanda degi, einhvern menjagrip, lífstein, er mátti frelsa, kerti, er varðveitti líf eigandans svo lengi sem það brann ekki upp.

— Þeir feðr, sem elsuðu yðr heitast, tendruðu ljós við vöggu yðar, sem þetta sjáið, á jólunum. Trúin á Jesúm er slíkt ljós fyrir hinn andlega mann, slíkt frelsisblys á hinni villigjörnu vegferð mannsins um heiminn. Eins lengi og maðrinn á það í hjartanu, lifir hann andlega. Engin plága, enginn sjúknaðr í heimi andans, ekkert slys í lífinu getr þá látið þann mann deyja. Engin eitr-skeyti heimsins verða honum að meini. —Það er ekkert til hið innra í manninum sjálfum, né hið ytra í lífi annarra, sem hann þarf að óttast andlegt og trúarlegt fjörtjón af, meðan slíkt ljós er óútbrunnið. En jafnskjótt og jólakertið þetta, sem hér er átt við, brennr út, jafnskjótt og lifandi trú á Jesúm slokknar í hjartanu, hverfr öll hin andlega jólabirta. Maðrinn sitr eftir í dauðahúmi syndarinnar, með nálykt dauðans

umhverfis, berskjalda fyrir hinum banvænu skeytum—ogdeyr Kristi, er ljósið han slokknar.

Ó, elskulega barn, glata þá ekki þessu, sem þér var gefið til að varðveita með þitt eigið líf. Mundu, að það er *hann*, sem er frelsari þinn. Þú, synduga mannsbarn, átt að vera frelsinginn. Þú, sem átt í stöðugu stríði við dauðann, gleym þá ekki, að varðveita æfi-kertið þitt, svo að þú deyir ekki.

## Trúarsamtalsfundir

voru í Nóvember haldnir í nokkrum söfnuðum kirkjufélagsins. Þeir séra Friðrik J. Bergmann og séra Jónas A. Sigurðsson, prestar íslenzku safnaðanna í Norðr-Dakota, og séra Jón J. Clemens, prestr Argyle-safnaða í Manitoba, komu til Winnipeg þriðjudaginn 15. Nóv., og fóru svo næsta dag ásamt með ritstjóra „Sam." norðr til Selkirk til þess að taka þátt í þannig löguðu fundarhaldi með fólki safnaðarins þar. Var svo ráð fyrir gjört, að hafa í þetta skifti samtalsfundi í fimm söfnuðum, tveim hér nyrðra (í Manitoba) og þremr fyrir sunnan (í Dakota), byrja í Selkirk, og hafa allsstaðar sama umrœðuefni. Og þessari hugsan var framfylgt. Umrœðuefnið, sem til var tekið, var: *sannr kristindómr.* Því miðr gátu að eins þessir fjórir af prestum kirkjufélagsins sótt fundina. Prógrammið varð nokkuð síðbúið, varð til í flýti eftir að séra Jónas A. Sigurðsson var heim kominn úr sinni Íslandsferð. Séra Oddr V. Gíslason var um þær mundir á ferð vestr í landi, svo til hans varð eigi náð. Séra Björn B. Jónsson á mjög ervitt með að sœkja fundi hér í norðrbyggðum sökum vegalengdar. Og séra Steingrímr N. Þorláksson, sem ákveðinn var í að sœkja fundina í Dakota-söfnuðunum, varð fyrir meiðsli í auga einmitt um það leyti, er þeir fundir voru haldnir, og gat því með engu móti komið.

Samtalsfundrinn í Selkirk var haldinn að kvöldi miðvikudaginn 16. Nóv. í kirkju safnaðarins þar, og síðan var honum haldið áfram um stund næsta dag. Séra Jónas A. Sigurðsson leiddi þar málið inn á fund, og sömuleiðis prédikaði hann við guðsþjónustu, er þar var haldin á undan umrœðunum að morgni hins síðara dags. Prédikunartexti hans var 1. Kor. 4, 20: „Því guðs ríki er ekki fólgið í orðum, heldr krafti". — Að kvöldi

sama dags, 17. Nóv., var samtalsfundr haldinn í Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg, og hélt séra Friðrik J. Bergmann þar inngangsrœðuna. Næsta dag fóru hinir fjórir prestar suðr til Akra í Norðr-Dakota, þar sem séra Jónas á heima, og daginn á eftir, laugardaginn 19. Nóv., voru þeir á fundi í Vídalínskirkju þar í grenndinni með fólki þess safnaðar. Séra Jón Bjarnason leiddi málið þar inn á fund. Á undan þeim fundi fór fram guðsþjónusta; prédikaði séra Jón J. Clemens þá og hafði fyrir texta söguna um lækning limafallssjúka mannsins í Matt. 9, 1—8.

Sunnudaginn 20. Nóv., síðasta sunnudag kirkjuársins, prédikuðu hinir aðkomnu prestar í prestaköllum þeirra séra Friðriks og séra Jónasar: séra Jón J. Clemens í kirkju Þingvallasafnaðar á Eyford og séra Jón Bjarnason í kirkju Vídalínssafnaðar. Á hinum síðarnefnda stað var flutt reformazíónarprédikan út af Jóh. 1, 44—47 og Róm. 3, 28, og var við þá guðsþjónustu fólk til altaris.

Tvo næstu daga voru sömu prestarnir á samkomum, sem kvenfélög safnaðanna á Mountain (Víkrsafnaðar) og Garðar héldu: mánudaginn á Mountain og þriðjudaginn á Garðar. Þó að veðr væri þá fyrir alvöru tekið að harðna, var merkilega margt fólk á hvorumtveggja staðnum saman komið. Aðal-númerið á prógrammi beggja samkomanna var rœða, sem séra Jónas flutti út af komu sinni til Íslands á síðastliðnu missiri. Samkoman á Garðar var haldin í félagshúsi einu miklu og vönduðu, sem nýlega hefir reist verið skammt frá kirkjunni.

Á miðvikudaginn, 23. Nóv., var trúarsamtalsfundr á Mountain í kirkju Víkrsafnaðar. Við guðsþjónustu á undan prédikaði séra Jónas A. Sigurðsson út af orðunum: „Sjáið manninn!" (Jóh. 17, 5). Sami prestr hélt og inngangsrœðuna á þeim samtalsfundi. — Næsti dagr, fimmtudagrinn, hinn 24., var dagr sá, er ákveðinn hafði verið til allsherjar þakkargjörðar fyrir bjargræði og blessan sumarsins liðna bæði í Bandaríkjunum og Canada. Slík guðsþjónusta var þá líka haldin í kirkju Garðarsafnaðar þann dag, og prédikaði séra Jón Bjarnason þá og lagði út af þessum tveim ritningargreinum: „Sjá, nú er hin œskilega tíð; sjá, nú er dagr hjálpræðisins" (2. Kor. 6, 2) og: „Hagnýtið tímann, því að nú eru hættulegir tímar" (Efes. 5, 16). Á samtalsfundinum,

sem haldinn var á eftir þeirri guðsþjónustu, hélt séra Jónas A. Sigurðsson inngangsrœðuna.

Að kvöldi næsta dags, 25. Nóv., voru hinir fjórir prestar enn allir staddir á fjölmennri kvenfélagssamkomu, er haldin var í kirkju Vídalínssafnaðar. Og þar kom séra Jónas A. Sigurðsson enn með langa og fróðlega rœðu út af því, sem hann sá og heyrði á Íslandi.

Daginn eftir hélt ritstjóri „Sam." heim til sín norðr til Winnipeg ásamt séra Jóni J. Clemens, sem að kvöldi sunnudagsins 27. Nóv., fyrsta sunnudags í aðventu, prédikaði fyrir hann í Fyrstu lútersku kirkju og tók hann og nokkra aðra safnaðar menn til altaris. Á mánudag, 28. Nóv., hélt séra Jón Clemens heimleiðis vestr í Argyle-byggð.

Allir samtalsfundirnir voru vel viðunanlega sóttir eftir því, sem á stóð, — sumir ágætlega. Bein hluttaka leikmanna í rœðuhöldunum var sumsstaðar fremr lítil. En yfir höfuð að tala leit út fyrir, að almenningr væri ánœgðr með fundahöldin. Og enginn vafi er á því, að þau hafa vakið hjá mönnum margar nýjar og nytsamar hugsanir um kristilega trú og kristilegt l f. Einna bezt fannst oss samtalsfundrinn í Vídalínskirkju heppnast. Þar tóku flestir leikmenn til máls.

---

## Sannr kristindómr.

Þetta var, eins og þegar hefir verið um getið, efnið,, sem menn höfðu til umrœðu á þessum síðustu trúarsamtalsfundum vorum. Það var að einu leyti valið með tilliti til þess, að það er svo afar víðtœkt, svo víðtœkt, að það nær út yfir öll kristileg trúarmál, öll mál, sem snerta hinn kristilega siðalærdóm, öll hin miklu sáluhjálparmál og framfaramál, sem kirkja Jesú Krists hefir meðferðis. Lægi þeim eða þeim safnaðarlimnum eitthvað sérstakt á hjarta, snertanda kristna trú eða kristilegt líf, sem hann vildi fá skýring á eða vekja athygli að öðrum til uppbyggingar, þá var auðsætt, að því mætti koma að við trúarsamtal út af þessu efni: *sönnum kristindómi.* Allt slíkt heyrði að sjálfsögðu því víðtœka umrœðuefni til. Enda reyndist það einmitt svo á samtalsfundum þessum, að hreift var við mörgum atriðum í trúarlífi kristinna einstaklinga og hinu kirkjulega félagslífi,

sem ekki hefði verið hœgt, hefði umrœðuefnið verið þrengra eða afmarkaðra, nema því að eins að umrœðurnar hefði lent út fyrir efnið.

En í annan stað var þetta umrœðuefni valið með tilliti til þess, að það er því miðr svo sorglega mikið til af ósönnum kristindómi hjá kirkjunnar eigin lýð. Freistingin svo ákaflega rík í mannlegu eðli til þess að vilja sýnast vera góðr í stað þess að vera góðr, og þá auðvitað eftir að menn hafa fengið gjöf kristindómsopinberunarinnar til sín til þess að viðrkenna hana að eins í orði kveðnu, vera ókristnir í hjarta og lífi, enda þótt menn gangi undir kristnu nafni. Þegar drottinn vor Jesús Kristr forðum kom fram í Gyðingalandi með hinn nýja fullkomna boðskap um guðs ríki, þá heyrði það algjörlega til undantekninganna, að fyrir honum yrði *sannir* Ísraelsmenn. Að eins að nafninu hélt allr þorri hins útvalda lýðs sér þá við guðs orð gamla testamentisins, opinberanina, sem guð hafði gefið því fólki til þess að undirbúa það undir komu sonar hans, hins fyrirheitna frelsara. Faríseaguðfrœðin ríkti þá og henni samfara ömurlegt farísealíf, fágað hið ytra, en gjörspillt og óguðlegt hið innra. Og af faríseahættinum hjá þjóð sinni stóð Jesú eins og kunnugt er meiri stuggr en af öllu öðru. Sín hörðustu orð talaði hann til mannanna með þeirri lífseinkunn. Og af öllum hættunum, sem hann sá að búnar voru söfnuði sínum, kristinni kirkju, á komandi öldum, var faríseaháttrinn áreiðanlega í hans huga langvoðalegasta hættan. Á fyrstu öldum kristninnar meðan játendr Jesú Krists lágu undir stöðugum ofsóknum var nú tiltölulega lítil freisting fyrir menn til þess að sýnast kristnir án þess að vera það. Enda gátu menntaðir heiðingjar ekki annað en borið hina dýpstu lotning fyrir hinu hreina, kærleiksríka og sjálfsafneitanda lífi kristinna manna þá, þó að trúarlærdómarnir kristnu væri þeim ekki annað en fyrirlitleg heimska. En eftir að kristin trú á dögum Konstantíns keisara var viðrkennd sem allsherjartrú hins rómverska heimsríkis og það fór að heyra til veraldlegra hlunninda að vera talinn meðal játenda Jesú Krists, þá kom freistingin til þess að láta sér nœgja kristindómsnafnið tómt með nýju voðalega sterku afli. Og meira og meira af ósönnum kristindómi fór að ná sér niðri í kirkjunni. Ósannr kristindómr fyrst í lífinu og síðan æ meir og meir í hinni kirkju-

legu kenning, sem eðlilega var, stundum af ásettu ráði, en langoftast safnaðarleiðtogunum óafvitanda og nálega ósjálfrátt, farið að laga eftir heiðindómsháttum þeim, sem náð höfðu sér niðri í lífi manna. þessi vöxtr hins ósanna kristindóms í kirkjunni heldr áfram um allan heim eina öldina eftir aðra þangað til hinn mikli atburðr, reformazíónin á 16. öldinni, kom fyrir. Guðs orð heilagrar ritningar er þá af þeim Lúter og samverkamönnum hans hrifið undan mælikerinu, sem páfakirkjan hafði yfir það hvolft. Og í ljósbirtu þess orðs sást svo skýrt, hve grátlega litið af sönnum kristindómi þá var eftir orðið hjá öllum þorra af hinum kirkjulega lýð landanna. Að sjálfsögðu var reformazíónin barátta fyrir sönnum kristindómi bæði með tilliti til kenningarinnar og lífernisins. Og gleðilega mikill var árangrinn. Hreint guðs orð og því samfara skorinorð krafa til allra kristinna manna um það að lifa sönnu trúarlífi í Jesú nafni. En þegar hagr reformazíónar-kirkjunnar var hið ytra kominn í gott horf, svo að hún þurfti ekki lengr að eiga í hinni hörðu baráttu fyrir tilveru sinni, þá óx aftr fyrir því sama fólki freistingin til — ef ekki að draga úr hinni evangelisku kenning, þá samt að minnsta kosti úr hinum kirkjulegu líferniskröfum.

Á það var þá líka bent við umrœðurnar á trúarsamtalsfundunum um *sannan kristindóm*, að þar sem mótspyrnan gegn íslenzka kirkjufélaginu út af hinni kristnu trúarjátning vorri frá andstœðingunum fyrir utan væri orðin svo lítil og félagið að því leyti þyrfti ekki lengr að berjast fyrir tilveru sinni, þá yrðum vér nú fremr öllu að gjalda varhuga við því, að kristindómr vor yrði ekki að tómri ytri siðaþjónustu. Í sambandi við þetta mál var og á það minnt, að á heimsmarkaðinum væri fullt af eftirgjörðum, fölsuðum vörum. Menn reyna að eftirgjöra nálega alla góða hluti, og hinum eftirgjörðu munum, líkamlegum og andlegum, er einatt af samvizkulitlum mönnum haldið fram, otað framan í almenning, eins og væri þeir sannir og ósviknir. Og á þessum svikum eru menn allt af að glœpast. En verst eru þessi svik, þegar um það er að rœða, sem dýrmætast er af öllu,— kristindóminn. Ósannr kristindómr, faríseatrú, hrœsni — hjá mönnum kirkjunnar — er háskalegasta vörutegundin á heimsmarkaðinum bæði að fornu og nýju. Og það einmitt fyrir þá sök, að sannr kristindómr er dýrmætari en allt annað.

Vert er að minna á það, eins og líka var gjört á samtalsfundumum, að menn geta lifað og lifa einatt ósönnu kristindómslífi, lífi hrœsninnar og faríseaháttarins, án þess sjálfir að vera sér þess meðvitandi. Þannig var ástatt fyrir faríseunum gyðinglegu til forna. Og þannig einnig fyrir lýð páfakirkjunnar almennt á reformazíónartíðinni. Hvorirtveggja lýðirnir þóttust vera góðir og gjöra guði þægt verk, er þeir börðust gegn málefni guðs ríkis. Að hrœsna fyrir sjálfum sér er mjög háskaleg hrœsnistegund.

Þegar menn hugsa um þetta háleita mál, sannan kristindóm, þá muni allir eftir fjallrœðunni frelsarans, einkum þó þessum orðum, sem öllum kirkjunnar mönnum ætti að vera ógleymanleg: „Ekki munu allir þeir, sem til mín segja: ‚herra, herra,‘ koma í himnaríki, heldr þeir einir, sem gjöra vilja míns himneska föður.“

Ómögulega má gleyma kvöldmáltíðarsakramentinu, þegar um sannan kristindóm er að rœða. Drottinn hefir alveg vafalaust gefið lærisveinum sínum það náðarmeðal meðfram og einna helzt til þess, að þeir með því gæti prófað sinn kristindóm. Í rauninni er nákvæmlega hið sama fólgið í þeirri sakramentisgjöf eins og liggr í fagnaðarboðskap kristindómsorðsins. En í kvöldmáltíðarsakramentinu er hið víðtœka, yfirgripsmikla innihald guðs orðs af Jesú sjálfum dregið saman í einn punkt. Miðpunktr kristindóms-opinberunarinnar er þar. Hjarta hins frelsanda kærleika. Kristr veitist þar allr öllum, eins og tekið er fram í hinum gamla og göfuga skírdagssálmi í sálmabók vorri. Vilt þú nú, maðr, sem telr þig kristinn, halda þér andlega föstum við þennan miðpunkt opinberunarinnar? halla þér andlega að þessu hjarta? — spyr drottinn í og með sakramenti þessu. Og þá ætti allir með sönnum kristindómi, eða sem vilja eignast sannan kristindóm, hjartans fegnir að vilja vera iðulega til altaris. Kvöldmáltíðarsakramentið dœmir hálfkristindóminn allan rækan úr kirkjunni.

---

**Biblíusögur**

Tangs, sem fyrir þrettán árum voru gefnar út í íslenzkri þýðing eftir séra Jóhann Þorsteinsson, eru nýkomnar út í Reykjavík, auknar og endrsamdar af séra Jóni Helgasyni, prestaskólakennara. Í hinni eldri

mynd er bók þessi vel þekkt í söfnuðum vorum, því hún hefir á seinni árum víðast hvar hjá oss verið notuð við undirbúning ungmenna undir ferming og sömuleiðis við sunnudagsskòlakennslu. Bòkin hefir fengið bezta orð í Danmörk. Oss hefir allt af helzt þótt það mega finna að henni, að hún væri of stòr. En þò hefir hún nú af séra Jòni Helgasyni verið stœkkuð svo mikið, að hún hefir víst rúmlega einum sjöttungi meira lesmál en áðr. Bòkin hefir verið notuð við trúfrœðiskennslu í latínuskòlanum í Reykjavík og til þess að gjöra hana betr fullnœgjandi við þá kennslu hefir séra Jòni, sem nú hefir þá kennslu á hendi, þótt nauðsynlegt að stœkka hana. En fyrir vanalega barnakennslu hefði verið betra, að bòkin hefði verið minnkuð frá því, sem áðr var. Vér erum fyrir löngu komnir til þeirrar sannfœringar, að hinar litlu biblíusögur Balslevs sé nògu stór bòk handa byrjendum. Og að þegar unglingunum er orðið vel ljòst slíkt smá-ágrip af hinni helgu sögu, þásé bezt að hafa biblíuna sjálfa fyrir kennslubók. Með því móti hljóta nemendrnir að verða biblíunni vel kunnugir. En annars er svo undr hætt við, að hinn mikli biblíusögulestr leiði flesta burt frá biblíunni, hversu vel sem kann að vera gengið frá slíkum kennslubókum.

Annars er víst yfir höfuð að tala mjög vel gengið frá þessu verki séra Jòns Helgasonar. En þó þyrfti sagan eigi svo óvíða að vera fyllri en kemr fram í þessari kennslukók til þess svo mikil þekking fengist, sem heimtandi væri af stúdentum hins lærða skóla. Þannig finnst oss frá því sjònarmiði of lítið sagt af sögu hinna tveggja ríkja, Júdaríkis og Ísraelsríkis; sú saga of mjög í molum. Og of lítið líka sagt um opinberanir frelsarans eftir upprisuna. Allar þær opinberanir, sem frá er skýrt í nýja testamentinu, hefði átt að geta um.

Aftr á mòti er það mikill kostr, að svo vel er gjörð grein fyrir spámönnunum flestum, sem rit hafa eftir sig látið í gamla testamentinu.

Fremr finnst oss það ókostr, að vikið hefir verið frá hinum íslenzka biblíutexta, þar sem orð ritningarinnar eru tilfœrð. Það hefði að eins á stöku stað átt að gjöra, þá er brýn nauðsyn bar til, eins og t. a. m. þar sem komið er með innsetningarorð skírnarsakramentisins (Matt. 28, 19), sem eins og þau standa í íslenzku biblíunni geta hœglega leitt til trúarlegs misskilnings. Að öðru leyti er sjálfsagt að bíða með þær breytingar þangað til ný endrbœtt útgáfa er komin af biblíunni á íslenzku.

Í neðanmálsgrein á bls. 278 stendr, að Sál frá Tarsus hafi líklega nefnt sig Pál eftir landstjóranum Páli Sergíus í eynni Sýprus, sem hann sneri til kristni. En sú getgáta, þótt gömul sé, er fremr ósennileg. Miklu líklegra, að hann hafi valið sér þetta nafn með tilliti til þess, að orðið (*paulus*) merkir „lítill“, til þess stöðugt að minna sig á hið sama, sem kemr fram í þessari játning hans: „Eg er síztr (minnstr) postulanna og ekki verðr að kallast postuli, því eg hefi ofsótt guðs söfnuð“ (1. Kor. 15, 9).

Kirkjusöguágripinu aftan við biblíusögur Tangs hefir séra Jón sleppt, en í þess stað býst han við rétt bráðum að gefa út annað fullkomnara í sérstökum bœklingi.



— Hr. Stefán Pálsson, sem fyrir hálfu þriðja ári var útskrifaðr frá Thiel College í Greenville, Pennsylvania, hefir síðan lesið guðfrœði á prestaskóla General Council-manna í Philadelphia. Þetta er hið seinasta námsár hans þar. Í sumar og fyrra sumar prédikaði hann í ýmsum ensk-lúterskum kirkjum þar eystra.

---

—Herra Árni Guðmundsen í Detroit Harbor, Wisconsin, hefir sent oss 10 dollara gjöf til handa skólasjóði kirkjufélagsins frá Guðnýju Helgadóttur, ekkju Jóhannesar Magnússonar, er fyrir skömmu andaðist í Lincoln county, Minnesota. „Þessi aldraða kona", ritar hr. Á. G., „erfði fáa dollara eftir Ólaf bróður sinn, sem dó fyrir 2 árum, og þar sem hún vissi, að Ólafr heitinn var vinveittr kirkjufélaginu og hafði einhvern tíma haft á orði að styrkja það, þá sendir hún hér með nálega þriðjung af arfinum." Vér tjáum gefanda hjartanlega þökk og óskum henni drottins blessunar.

—Um aðra 10 dollara gjöf kirkjufélaginu til handa höfum vér og nýfengið skeyti frá séra Birni B. Jónssyni. Hvernig á henni stendr og í hvaða tilgangi hún er gefin, frá því skýrir hann í sérstakri grein, sem sökum rúmleysis gat ekki komizt í þetta blað „Sam.", en kemr í næsta blaði.

*Leiðrétting.*—Í frumvarpi til laga fyrir bandalag kirkjufélagsins, sem prentað er í Október nr.i „Sam.", er villa, þar sem í 1. gr. 5. kafla stendr, að „engu öðru fólki en því, er heyrir kirkjufélaginu til, sé hér eftir veitt þar inngang" (nefnilega í bandalög safnaðanna). Í stað orðsins „kirkjufélaginu" á þar að standa: „lúterskum söfnuðum". Þessi breyting var á fundinum í sumar gjörð við hið upphaflega frumvarp, en gleymdist við prentan fundargjörningsins fyrst í „Lögbergi" og síðan í „Sam."

— Í nafni hr. Jóns V. Þorlákssonar að Mountain, N.-Dak., höfum vér verið beðnir að geta þess, að þessar upphæðir hafi honum nýlega verið borgaðar til minnisvarða bróður hans, séra Páls heitins Þorlákssonar: frá Sigfúsi Bergmann $1.00, frá Jóni J. Mæri $4.00 og frá Indriða Sigurðssyni $2.00.

— Hjá ritstjóra „Sam." fást nú íslenzkar biblíur og nýja testament (frá brezka biblíufélaginu). Biblían kostar $1.45, nýja testamentið 60 cts.

---

„KENNARINN", mánaðarrit til notkunar við kristindómsfrœðslu barna í sunnudagsskólum og heimahúsum; kemr út í Minneota, Minn. Árgangrinn, 12 nr., kostar að eins 50 cts. Ritstjóri séra Björn B. Jónsson. Útg. S. Th. Westdal.

„ÍSAFOLD", lang-mesta blaðið á Íslandi, kemr út tvisvar í viku allt árið; kostar í Ameríku $1.50. Halldór S. Bardal, 181 King St., Winnipeg, er útsölumaðr.

„VERÐI LJÓS !"— hið kirkjulega mánaðarrit þeirra séra Jóns Helgasonar, séra Sigurðar P. Sívertsens og Haralds Níelssonar í Reykjavík — til sölu í bókaverzlan Halldórs S. Bardals í Winnipeg og kostar 60 cts.

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Björn B. Jónsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.